Őreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

13. tbl. Þriðjudagurinn 28. mars 7. árgangur Verð kr. 80.-

Ert þú áskrifandi að viku-blaði verkafólks?

# 2. landsþing KFÍ/ML

Dagana 23. - 25. mars hélt Kommúnistaflokkur Íslands, marxistar-lenínistar, sitt II. landsþing í Reykjavík. Landsþingið tók til umfjöllunar fjölmargra málaflokka og birtast ályktanir þess hér annars staðar í blaðinu. Miðstjórn flokksins taldi brýna nauðsyn á að flýta þessu þingi til að staðfesta mætti það uppgjör sem átt hefur sér stað við "vinstri"-hentistefnuna og andflokksklíku "sjö menninganna". Þingið markaði á skýran hátt þær leiðir sem flokkurinn verður að fara til að ná enn frekari sigrum yfir "vinstri"-hentistefnunni og andflokksklíku "sjö menninganna" og um leið styrkja flokksstárfið. Ennfremur varaði þingið félagana við þeirri hættu, sem felst í að ein tilhneiging dylur aðra og bendir þeim á að vera á varðbergi gagnvart hæri villum í leiðréttingarherferðinni.

Á II. landsþinginu ríkti mikil eining og starfsandi var sérlega góður. Þingið varð því mjög árangursríkt hvað varðar einingu flokksins um stefnuskrá sína og þær ályktanir, sem samþykktar voru bera það með sér, að félagarnir hafa tekið á málefnum þingsins af festu og alvöru. II. landsþing KFÍ/ML afsannaði gjörsamlega þær illmælusögur, sem smáborgaralegar sögusmettur höfðu breytt út um hann. KFÍ/ML stendur styrkum fótum á grundvelli marxismans-lenínismans og hann hefur mótað sér baráttustefnu við íslenskar aðstæður á þeim grundvelli. Jafnframt hefur hann myndað sterk bönd við verkalýðinn í gegnum baráttustefnu sína og þau bönd styrkjast stöðugt. Þetta er einn mikilvægast árangur flokksins á tveggja ára vegferð hans.

II. landsþingið valdi sér nýja miðstjórn og mun hún leggja áherslu á að staðfesta sigra þingsins í starfinu.





Myndin er af útifundinum sem haldinn var á Lækjartorgi til að mótmæla ólögunum. Ríkisvaldið svífst lítils í refsiaðgerðum gegn launafólki sem þá lagði niður vinnu.

# Ríkisvaldið rænir úr launa umslögum

Það má segja að svolítill aðstöðumunur sé á þeim sem ráða löggjafar-og framkvæmdarvaldinu (þ.e. borgarastéttin), annars vegar og alþýðu landsins hins vegar.

Þegar borgarastéttin krefst aukins gróða þá setur hún lög, hækkar skatta, lækkar kaup, lengir vinnutímann, rekur fólk úr vinnu o.s.frv.

Þegar lífskjör alþýðunnar eru orðin óviðunandi vegna aðþrenginga borgarastéttarinnar og verkalýðurinn grípur til gagnaðgerða t.d. verkfalls, þá hefur hún völd til enn frekari árása. Hún dæmir menn til fjársekta, hótar öllu illu og hér áður fyrr gekk hún svo langt að beita lögreglu, handtökum og lögverndudum hvítliðum. Til allra þessara aðgerða er borgarastéttin reiðubúin að grípa , hvenær sem hún telur þess þurfa. Þess vegna verður verkalýðshreyfingin að beita sínum hörðustu baráttuaðferðum til að kæfa í fæðingu allar tilhneigingar af fyrrgreindum meiði.

Sú ráðstöfun stjórnvalda að

framhald á síðu 3

# PLO sækir á innan Ísrael

Íslenskir fjölmiðlar hafa skrifað mikið um innrás Ísrael inn í Líbanon, sem átti sér stað fyrir skemmstu. Orsakir innrásarinnar hafa verið raktar til þess, að hópur palestínskra skæruliða tók fólksflutningabíl á sitt vald, en hann var síðan sprengdur í loft upp í árás ísraelska hersins, með þeim afleiðingum að fjöldi óbreyttra borgara lét lífið. Vafalaust hafa þessir atburðir ekki verið eina kveikjan að innrásinni og auk þess er málum hallað mikið í frásögn fjölmiðlanna hérlendis af þessum atburði.

Hluti þessara skæruliða tók síðan fólksflutningabílinn herskildi, í þeim tilgangi að komast undan eftirför Ísraelshers. Sem kunnugt er misheppnaðist þetta með þeim hroðalegu afleiðingum að tugir óbreyttra borgara létust. En Ísraelski herinn hafði fulla vissu um að óbreyttir borgarar væru í bifreiðinni, samt sem áður hikaði hann ekki við að varpa sprengjum að henni. Þetta sýnir aðeins lítilsvirðingu sem her stjórnarinnar fyrir lífi alþýðunnar í Ísrael. Það hefur einnig verið reynt að láta líta svo út, sem skæruliðahópurinn hafi komið frá Líbanon. Má vera að nokkur hluti hans hafi komið þaðan, en þetta atriði breytir samt sem áður engu um, að PLO á víðtækan stuðning innan landamæra Ísraelsríkis. Enda hefur atburðarás síðustu viku fullkomlega sýnt fram á það. Bæði hafa orðið alvarleg uppþot og mótmæli innan Ísraels gegn innrásinni í Líbanon, sem víða hafa leitt til skotbardaga og langvinnra óeirða. Og einnig hafa hernaðarlegar aðgerðir PLO að baki innrásarherjanna sýnt fram á tilvist og styrk PLO innan landamæra Ísraels. Og PLO hafa ekki aðeins liðstyrk og fylgi Palestínumanna sem búa í Ísrael, heldur njóta þeir einnig stuðnings gyðinga, sérstaklega asíu-ættaðra gyðinga. PLO stefnir ekki að "eyðingu" gyðinga eða æskir stríðs milli

framhald á síðu 3

## PLO-skæruliðar mjög sterkir innan Ísrael.

Áróðursmeistarar ísraelsku stjórnarinnar hafa lagt mikla áherslu á það atriði, að hertaka fólksflutningabílsins hafi verið einangrað hermdarverk, sem þjónað hafi þeim tilgangi einum að myrða og skaða almenna borgara. Þetta er ekki rétt. Hið raunverulega sem gerðist er þetta, samkvæmt fréttum sýrlenska blaðsins "Al Baath". Palestínskir skæruliðar, juku mjög vopnaða baráttu sína í norðurhluta Ísraels eftir s.l. áramót og gerðu Ísraelsher marga skráveifu. M.a. sprengdu þeir í loft upp vopnabúr og hernaðarleg mannvirki, felldu fjölmarga hermenn úr Ísraelsher og eyðilögðu hernaðargögn.

# Mætum öll á baráttufund herstöðvaandstæðinga 30.mars kl.21⁰⁰ í Háskólabíó

LEIÐARI

# 2. landsþing KFÍ/ML

Kommúnistaflokkur Íslands M/L hefur haldið II. þing sitt. Það var haldið dagana 23. - 25. mars. Á þinginu voru rædd öll stefnumarkandi mál flokksins um leið og gert var upp við þær villur, sem gerðar hafa verið í starfi og skipulagi flokksins. Annað þingið markar tímamót í baráttunni gegn einangrunarstefnunni og röngum starfsháttum. Það var ákveðið að efla verður starfið innan fjöldahreyfinga og gera það markvissara. Mikilvægast er að auka starfið innan verkalýðsfélaganna og tengjast þeim sterkari böndum. Verkalýðsfélögin eru mikilvægustu félagasamtökin í baráttunni gegn kjaraskerðingunum og afskiptum ríkisvaldsins af kjarasamningunum. Án þátttöku þeirra næst ekki árangur í þeirri baráttu. Bein þátttaka verkafólks í öllum þjóðmálum í gegnum sín félög og samtök verður að vera aðalverkefni KFÍ/ML.

Þátttaka kvenna í stéttabaráttunni var mjög til umræðu á þinginu. Það er staðreynd, sem ekki verður framhjá komist, að jafnrétti kynjanna er aðeins í orði, en ekki á borði, hér á landi. Aðstaða kvenna til að taka virkan þátt í félagsmálum er harla bágborin. Það er ekki aðeins um það að ræða að karlar séu frekar kjörnin til slíkra mála heldur líka hitt, að konum er ýtt inn á heimilið vegna lægri launa en karlar hafa. Launamunurinn fyrir sömu störf er mjög mikill. Auk þess sem karlar eru fremur valdir í hærri launastöður, fyrst og fremst vegna gamalla fordóma um að konan eigi og geti aðeins stjórnað í eldhúsinu. Gegn þessu verður að berjast og efla baráttu kvenna fyrir fullu jafnrétti, bæði hvað varðar félagslegt jafnrétti og eins hvað varðar jafnrétti til starfs og launa. Þessi barátta er ekki milli karla og kvenna, eins og sumir hafa haldið, heldur er hér um að ræða baráttu gegn viðteknum hugmyndum okkar þjóðfélagsskipulags. Til þess að berjast gegn viðteknum skoðunum og gildismati auðvaldsþjóðfélagsins þurfa verkakonur og verkakarlar og vinnandi alþýða að standa saman. Án þátttöku karla í baráttunni fyrir jafnrétti kynjanna vinnst aldrei sigur og án þátttöku kvenna í stéttabaráttunni vinnst aldrei sigur á auðvaldsþjóðfélaginu.

Verndun lýðréttinda og efling félagslegrar samhjálpar var einnig mikið rædda þinginu. Verndun lýðréttinda er eitt stærsta mál verkalýðshreyfingarinnar í dag. Mikilvægi þess sést best á því, þegar ríkisvaldið afnemur frjálsan samningsrétt verkalýðsfélaganna með lagasetningu. Slíkt afskipti og þessi vinnubrögð, sem minna mest á einræðisherra, verður að fordæma mjög öfluglega. Þetta er ekkert annað en afnám á þeim eina rétti, sem launafólk hefur til að hafa áhrif á laun sín og kjör. Launafólk er ekki spurt hver vilji þess sé þegar ákvarðanir eru teknar um ráðstafanir í efnahagsmálum. Aldrei hefur nokkurri ríkisstjórn dottið það til hugar að spyrja þjóðina um það, hvort frekar eigi að fara þessa leiðina eða hina í efnahagsmálum. Þegar ríkisstjórnin skerðir svona lýðræðið með lagasetningu eins og nú hefur verið gert, verður verkalýðshreyfingin að snúast til varnar af fullri hörku. Baráttan fyrir verndun lýðréttinda tekur einnig til málfrelsis, fundafrelsis og prentfrelsis. Vart er tilhneiginga í þá átt að skerða þessi réttindi í auknum mæli. Í því sambandi má nefna tilraunir 'Varins lands" aðstandenda til að skerða mál- og prentfrelsi.

Mikil áhersla var lögð á að efla baráttuna fyrir fullum og óskoruðum sjálfsákvörðunarrétti þjóðarinnar. Þetta á ekki síst við um baráttuna gegn ásælni erlendra auðhringa í íslenskt efnahagslíf, sem valdið hefur miklum skaða. Óheillavænleg áhrif erlends auðmagns hefur meðal annars aukið á verðbólguþróunina og ýtt undir rangar fjárfestingar, sem valdið hafa miklu tjóni. Baráttan gegn risaveldunum og stríðshættunni, sem alltaf er að aukast með auknum vígbúnaði, gerir það að verkum, að nauðsynlegt er að berjast gegn veru Íslands í NATO og herliðinu á Miðnesheiði. Í baráttunni fyrir fullu og óskoruðu sjálfstæði verður að snúast gegn báðum risaveldunum, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum.

Þetta voru aðalmál þingsins, en auk þeirra voru fjölmörg önnur mál rædd og teknar ákvarðanir eins og t.d. um það, að KFÍ/ML mun bjóða fram í alþingiskosningunum í vor.

# 30 mars 1949

Innganga Íslands í NATO 30. mars 1949 var upphafið af áralangri hersetu bandaríska hersins. Þar með var snúið baki við þeirri hlutleysisstefnu sem fylgt hafði verið fram að þeim tíma. Forysta Sjálfstæðisflokksins og Framsóknarflokksins tóku að reka áróður fyrir varnarsamstarfi vestrænna þjóða eins og þeir kölluðu hernaðarstefnu Bandaríkjanna.

Á sama tíma var rekin gífurlegur áróður gegn Sovétríkjunum og sagt að þau hyggðu á heimsyfirráð. Þetta var gert til að dylja útþenslustefnu þá, sem Bandaríkin ráku þá af miklu kappi um allan heim. Á sama tíma og þau héldu því fram, að Sovétríkin hyggðu á árás á vestræn lýðræðisríki, sendu Bandaríkin árásarherji sína til þeirra landa þriðja heimsins, sem börðust fyrir sjálfstæði eftir heimsstyrjöldina.

Þetta var upphafið af því tímabili, sem kallað hefur verið "kalda stríðið", sem var pólitískur bakgrunnur atburðanna 30. mars. Íslenska auðstéttin rak gífurlegan áróður fyrir því, að Ísland yrði að velja milli stórveldanna. Staðsetning landsins hafði mikla hernaðarlega þýðingu og um leið pólitíska þýðingu. Bandaríkin lögðu því mikla áherslu á að fá stuðning við að efla stöðu sína hér á landi. Þetta tókst þeim með því að bera fé á ráðamenn þjóðarinnar í formi svo kallaðrar Marshallhjálpar. Þessi svokallaða hjálp var ætluð þjóðum sem höfðu um sárt að binda eftir styrjöldina. En Íslendingar höfðu frekar grætt á stríðinu en hitt, svo ekki var hægt að líta á Marshalldollarana sem annað en mútur til að versla með sjálfsákvörðunarrétt þjóðarinnar. Þar með hófst þjónustutímabil Íslendinga við bandarísku heimsvaldastefnuna og dollararnir tóku að streyma inn í landið. Bandaríska heimsvaldastefnan hafði öðlast dyggan þjón, íslensku auðmannastéttina.

Síðan þá hefur margt breytst í heiminum og annað risaveldi komið til sögunnar, með endurreisn auðvaldsskipulagsins í Sovétríkjunum.



Lögregla og hvítliðar beita táragassprengjum á herstöðvaandstæðinga

# 30 mars 1978

Vegna tilkomu Sovésku heimsvaldastefnunnar hefur skapast nýtt ástand í heiminum þar sem tvö risaveldi kljást um heimsyfirráð. Þjóðir vestur og austur Evrópu, eru hver um sig smáar og vanmegnugar samanborið við þessi risaveldi, sem vígbúast af kappi til að undirbúa árásarstríð. Heimsfrið stafar því ekki lengur hætta af neinu ríki í Evrópu, heldur aðeins þessum hernaðarrisum. Í dag horfa því málin þannig við, að það eru sameiginlegir hagsmunir allra Evrópuríkja að berjast gegn drottnunarstefnu risaveldanna beggja. Undir forystu ríkja þriðja heimsins, verður að mynda bandalag Evrópuríkja gegn þeirri stríðs ógnun sem stafar af risaveldunum. Það verður að taka mið af nýju ástandi heimsmálanna. Ekki er nóg að snúast gegn ásælni USA, Sovétríkin eru nýtt heimsvaldaríki sem þrýstir á um stærri markaði og ítök, sem ekki var ástæða til að afla meðan þau voru sósíalísk.

Í baráttu Samtaka herstöðvaandstæðinga hefur þessu ekki verið veitt nægileg athygli. Þó eru þar á undantekningar, eins og fram kemur í viðtali við Jón Böðvarsson í síðasta Dagfara, en þar segir hann m.a. : "Þjóðir þriðja heims, einkum hinar fátækari, neita að láta skipa sér í tvær fylkingar, annað hvort með eða á móti öðrum risaaðilanum. Hlutleysisblokkin sem myndaðist í Asíu og Afríku fyrir um það bil tveimur áratugum, hefur nú haft þau áhrif að flestar smáþjóðir sjá, að eina leið þeirra til þess að hafa áhrif á gang mála og verja sína hagsmuni er að taka afstöðu á móti stórveldunum báðum.

Mér finnst mikilvægt að brýna fyrir fólki að með þeirri afstöðu náum við árangri".

Þannig lítur Jón Böðvarsson á heimsmálin í dag og þeir verða stöðugt fleiri með degi hverjum, sem er mikilvægi þessa ljóst. Það hefur skapast nýtt ástand, sem krefst nýrra baráttuaðferða fyrir sömu markmiðum.

# Verkfallsbrot

Ekki ber allt upp á sama dag og ólíkt hafast mennirnir að.

Á meðan verkamennirnir í verkalýðsfélaginu Hlíf í Hafnarfirði stóðu í tveggja daga verkfalli, mættu tveir af stjórnarmönnum félagsins til vinnu og gerðust þar með verkfallsbrjótar. Með þessu athæfi voru þeir ekki aðeins að brjóta verkfallið, heldur sýnir þetta athæfi gjörla hvorum megin í fylkingu þeir standa. Verkfallið snérist gegn ríkisvaldinu og var barátta fyrir rétti verkalýðsfélaganna til að semja um kaup og kjör. Þetta athæfi þessara tveggja forystumanna Hlífar opinberar því ekki annað en fyllsta stuðning þeirra við aðgerðir ríkisvaldsins. Við fögnum því þeirri ráðstöfun að þeir skuli hafa verið látnir víkja úr stjórn Hlífar. Þessi atburður sýnir glögglega að það mat okkar að svikarar séu meðal forystumanna verkalýðshreyfingarinnar er rétt. Þar eru menn sem einskis munu svífast í svikssemi sinni, þegar á baráttuviljann reynir.

Svik við baráttu verkalýðshreyfingarinnar, þó af öðrum toga, urðu í þessu verkfalli.

Eins og lesendur Stéttabaráttunnar vita þá hefur borið á "vinstri"öfgum hjá hóp sem heitir Eik(ml) og stjórnarmenn Hlífar, þeir sem áður er getið. Vegna "vinstri" - barnasjúkdóma töldu þeir að mikilvægara væri að berjast gegn forystu ASÍ og BSRB, heldur en ríkisvaldinu. Þeir sáu ekki hver var höfuðóvinurinn og gerðu sér heldur ekki grein fyrir mikilvægi þessa pólitíska verkfalls. En þrátt fyrir að verkfallið hafi verið lýst ólöglegt fyrir verkalýðsforustan út í baráttuna. Þó menn séu óánægðir með að aðgerðirnar séu ekki nógu harðar, er það ekkert annað en stéttsvik að fara ekki út í baráttuna, þegar hún er hafin.

Í Vegna "vinstri"barnasjúkdóma gerðu félagar Eik(ml) sig seka um slík svik.

Jafnvel gerði einn forystumanna Eik(ml) sig sekan um að þiggja 15% kauphækkun og fara þar með ekki út í 2 daga baráttuna gegn ólögunum. Þessi maður er formaður Félags grafískra teiknara og hann gerði enga tilburði til til að fá félagið til samstöðu með baráttu verkalýðshreyfingarinnar. Þetta hefur hingað til verið kallað að þiggja mútur.

Ef við segjum að sömu reglur gildi um marx-lenínistana í Eik(ml) og forystumennina tvo í Hlíf, þá verðum við að krefjast þess að Eik(ml reki þessa stéttsvikara úr sínum röðum.

Kommúnistar verða að gera sér fulla grein fyrir því, að aðrar reglur gilda fyrir þá menn sem leiða ætla sér að leiða baráttu verkalýðsins en fyrir almenna félaga sem sumir hverjir gera sér ekki grein fyrir nauðsyn baráttunnar. Þeir menn sem gegna forystuhlutverkunum eru meðvitaðir baráttumenn eða þeir eru meðvitaðir svikarar. Þar er ekkert sem skilur á milli.

En almennt launafólk sem ekki tekur þátt í baráttuaðgerðum er ómeðvitað um hversu það bregst stétt sinni. Og þegar það tekur ekki þátt í aðgerðunum er það í flestum tilvikum forystumönnum verkalýðsfélaganna að kenna. Þeir hafa þá ekki gegnt sínum störfum sem skyldi.

# Hvernig starfar kommúnisti

**Dufþakur**

Það kemur stundum fyrir, að þeim, sem telja sig vera kommúnista - eða jafnvel marx-lenínista - er vorkennt fyrir brambolt sitt og spurt, hvort það hafi ekki takmarkaða þýðingu að starfa í fámennum hópi. Því ekki einfaldlega að ganga í Alþýðubandalagið? Og ennfremur: Er ekki klofningurinn á vinstra kanti íslenskra stjórnmála þegar of mikill? Þessu er til að svara, að Kommúnistaflokkurinn sker sig frá Alþýðubandalaginu og öðrum svonefndum vinstriflokkum í öllum grundvallaratriðum. Þetta skal ekki tíundað hér, heldur aðeins bent á stefnuskrá flokksins því til sönnunnar.

Kommúnistaflokkur Íslands lýsir því yfir í stefnuskrá sinni að hann ætli að leiða hinn vinnandi fjölda til sósíalískrar byltingar á Íslandi. Þetta er auðvitað hægara sagt en gert, enda vart á valdi fámenns flokks. En til þess að skapa þessi skilyrði þarf að vinna þolinmótt og þrautseigt starf. Í dag getur félagi í KFÍ/ML ekki labbað inn á fjölmennan vinnustað og sagt sísona: "Jæja, hér er ég kominn. Ég er sjálfkjörinn leiðtogi ykkar í baráttunni." Auðvitað verður enginn kommúnisti með hátíðlegum yfirlýsingum einum saman og síst af öllu er ástæða til að auglýsa flokkspólitíska aðild sína. Kommúnisti verður nefnilega að þekkja þá einföldu staðreynd að vera einn af fjöldanum. Hann verður að byrja á því að kynna sér allar aðstæður, kynnast vinnufélögunum, skoðunum þeirra og viðhorfum Hann mun ekki vinna sér traust meðal fjöldans með róttækum yfirlýsingum um nauðsyn þjóðfélagsbyltingar, nauðsyn alræðis öreiganna eða fræðilegum útskýringum. Þvert á móti byrjar hann á því að ræða við samverkafólk sitt um það, sem það hefur fyrst og fremst áhuga á, nefnilega kjara- og réttindamál. Einmitt á þennan hátt fær hann traust vinnufélaga sinna og gerist smám saman leiðtogi þeirra. Hann getur t.d. kynnt stefnu flokksins, án þess að nefna flokkinn nokkurn tíma á nafn, og þá með því að benda á, hvort ekki sé rétt að fara einmitt þessa leið í baráttunni og setja einmitt fram þessar kröfur. Kommúnistaflokkur lítur svo á, að hagsmunir fjöldans séu hagsmunir flokksins. Þetta er kjarni málsins.

Það hefur löngum verið deilumál ísl. marx-lenínista hvernig ætti að starfa í fjöldahreyfingum. Sumir vilja fara þessa leiðina og aðrir hina. Eik m-l leggur t.a.m. áherslu á í dag að skapa einskonar prívatsamfylkingar, þ.e.a.s. samfylkingar, sem hann einn getur stjórnað - "hreinræktaðar" samfylkingar, lausar við alls kyns hentistefnu, endurskoðunarstefnu, trotskýisma o.s.frv. Þar fá vart aðrir aðgang nema þeir sem styðja Eik m-l.

Kommúnistaflokkur Íslands leggur aftur á móti áherslu á, að sameina sem flesta til að ná sem víðtækustum stuðning við eitthvert ákveðið baráttumál og ná þannig sem bestum árangri. Fólk innan slíkrar samfylkingar hefur auðvitað ólíkar hugmyndir, ólíkar pólitískar skoðanir. Mestu máli skiptir að þessum árangri sé náð.

Við getum tekið dæmi. Innan Samtaka herstöðvaandstæðinga er reynt að sameina alla þá sem hægt er að sameina undir kjörorðinu Ísland úr Nató - herinn burt. Þarna er auðvitað að finna fólk með alls kyns pólitískar skoðanir.

En jafnframt reynir Kommúnistaflokkurinn að afhjúpa hverja þá, sem reyna að sundra samfylkingunni eða notfæra sér hana sjálfum sér til framdráttar. Mestu máli skiptir að markmiðinu sé náð en ekki að Kommúnistaflokkurinn auglýsi sjálfan sig á kostnað markmiðsins. Það er hins vegar skylda félaga KFÍ/ML, sem starfa innan slíkrar baráttufylkingar að koma fram sem ákveðnustu og dugmestu baráttumennirnir.

Framhald af síðu 5.

ÁLYKTUN UM STARFIÐ INNAN HÁSKÓLANS

berjumst gegn borgaralegu innihaldi námsins, allt frá barnaskóla og upp í háskóla. Við berjumst fyrir því að form námsins sé miðað við hagsmuni verkafólks og barna þess. Við berjumst fyrir því að öll framhaldsmenntun eś opnuð fyrir verkafólki, og að starfsþjálfun sé metin á við bóklegt nám. Það er stefna KFÍ/ML að háskólarnir seú opnaðir fyrir fólki sem hefur ekki stúdentspróf. KFÍ/ML berst fyrir því að námsmenn og menntafólk tengist verkafólki á vinnustöðunum og noti sína þekkingu í baráttu verkalýðsins.






# PLO sækir á innan Ísrael

Framhald af forsíðu

kynþátta eða þjóðabrotanna sem byggja Ísrael. Þvert a móti vilja þeir sameina alþýðu landsins, af hvaða bergi sem hún er brotin, í eina volduga baráttufylkingu gegn heimsvaldastefnunni, síonismanum og kynþáttastefnu Ísraelsstjórnar. PLO vill setja á stofn lýðræðislegt ríki, þar sem gyðingar og arabar búa hlið við hlið og í sátt og samlyndi. Það er þessi stefna þeirra, auk einarðrar og fórnfúsrar baráttu fyrir málstaðnum, sem hefur aflað þeim þess mikla fylgis sem þeir eiga fagna innan Ísraels í dag.

Innrás Ísraelsmanna almennt fordæmd.

Um víða veröld hafa viðbrögðin við innrás Ísraelsmanna verið mjög á eina lund. Hún hefur verið fordæmd sem ofbeldi og andstæð lausn vandamálanna fyrir botni Miðjarðarhafs. Meira að segja Bandaríkjastjórn hefur lagst gegn stefnu M. Begins forsætisráðherra Ísraels og hvatt stjórn Ísraels til þess að draga hersveitir sínar til baka frá Líbanon. Ísraelsmenn hafa ekki náð neinum árangri með innrásinni. Þeir ætluðu sér að þurrka PLO-búðirnar í S-Líbanon út og brjóta PLO gersamlega á bak aftur. Í staðinn hefur innrásin leitt til þess að PLO hafa aukið hernaðaraðgerðir sínar innan Ísrael og gert harða hríð að innrásarliðinu í Líbanon. PLO hefur líka fengið aukinn stuðning við baráttu sína meðal arabaríkjanna og um víða veröld. Hafi tilgangur Begins með innrásinni verið sá að ná betri aðstöðu hernaðarlega og á vettvangi alþjóðastjórnmála, hefur hann fullkomlega skotið yfir markið. Árásir úr lofti á Beirut hafa vakið reiði og viðbjóð og stríðsæsingar Begins hafa afhjúpað hann og aðra ráðamenn Ísraels sem hernaðarsinna og ofbeldisseggi. Friðargrímunni hefur fullkomlega verið svipt af andliti Ísraelsstjórnar og heimsvaldasinnuð áform hennar afhjúpuð. Það er athyglisvert, að fulltrúar á utanríkisráðherrafundi Norðurlandanna skerptu tóninn gegnvart Ísrael og útþenslustefnu Begins fyrir skemmstu. Þetta er réttmætt og nauðsynlegt að andstöðu Norðurlandanna gagnvart innrásinni í Líbanon verði fylgt eftir með aðgerðum. Ísland á að skipa sér í flokk óháðra landa og þriðja heims landa og styðja frelsisviðleitni Palestínumanna gegn yfirgangi Ísraels. Það skortir mikið upp á að svo sé í dag og stjórnarflokkarnir hérlendis eru þekktir fyrir stuðning sinn við Ísrael. Innrásin í Líbanon verður kannske til þess að opna augu þessara manna fyrir árásareðli Ísrael og draga úr stuðningi þeirra við þau öfl, sem standa í vegi fyrir friðsamlegri og réttmætri lausn á vandamálunum.

Framhald af baksíðu

SOVÉTRÍKIN AUKA ÁHRIF SÍN HÉRLENDIS

En María er ekki ein um að þiggja laun fyrir þjónustu sína fyrir Sovétríkin. Þeirra vafasömu hlunninda eru fleiri aðnjótandi. - Hvernig sem því er varið, er alla vega eitt ljóst. Þetta fólk sem er á launum erlends stórveldis, er í sömu sporum og quislingarnir fyrir seinni heimsstyrjöldina. Þeir eru að ryðja brautina fyrir hernaðarlegt ofbeldi og yfirgang heimsvaldaríkis, sem ógnar heimsfriðnum stöðugt meira. Þessi starfsemi verður engan veginn flokkuð undir það, að hér sé um áhuga fyrir menningarlegum tengslum að ræða.

Þetta eru launaðir agentar á snærum erlends stórveldis, sem hafa smogið inn í baráttuhreyfingar alþýðunnar og ætla sér að beita áhrifum sínum þar til þess að auka stuðning við stríðsfyrirætlanir Sovétríkjanna. Þetta fólk er viðsjárvert og nauðsynlegt að flett verði ofan af starfsemi þess á allan hátt. Stéttabaráttan krefst þess af Þjóðviljanum að hann skýri opinskátt frá því hvort einhvert tengsl séu milli starfsfólks hans og APN. Blaðið vill ennfremur vara við fyrirætlunum þess fólks, sem starfar í fjöldahreyfingum íslenskrar alþýðu á launum erlends stórveldis. Stéttabaráttan hefur fordæmt starfsemi NATO-Manga í þágu Bandaríkjanna, hið sama gerir blaðið gagnvart útsendurum sovéskrar heimsvaldastefnu á Íslandi, hvort sem þeir bera hugsjónum við eða ekki. Þær fá engu breytt um þá staðreynd, að þeir þiggja laun fyrir að liðsinna hernaðarfyrirætlunum sovésku heimsvaldasinnanna á íslenskri grund.

# Ríkisvaldið rænir úr launa umslögum

Framhald af forsíðu

draga af opinberum starfsmönnum 8% af mánaðarlaunum fyrir eins dags verkfall og 16% fyrir tveggja daga, er árás sem er hættulegt fordæmi ef hún nær fram að ganga. Gegn henni verður verkalýðshreyfingin að berjast af öllum mætti, því fengin reynsla segir okkur að borgarastéttin gengur á lagið ef hún er látin komast upp með viðlíka aðgerðir.

Ein ástæðan fyrir því að Bandalag starfsmanna ríkis og bæja og Alþýðusamband Íslands fóru út í "ólöglegar" verkfallsaðgerðir saman hefur ekki enn komið fram. Hún er að ef ASÍ hefði beðið þar til 1. apríl og þá hafið "löglegar" verkfallsaðgerðir, myndi BSRB hafa staðið uppi eitt og sér. Staðan sem BSRB hefði þá verið í er sú að annað hvort hefði það farið út í "ólöglegar" verkfallsaðgerðir eða það hefði orðið að standa utan við baráttuna. Slíkt hlyti óhjákvæmilega að leiða til þess að félagar BSRB næðu aldrei sínum umsömdu launum. Verkfallsréttur BSRB er nefnilega það takmarkaður. Bandalagið getur ekki hafið "löglegar" verkfallsaðgerðir án undangenginnar strangt skorðaðrar atkvæðagreiðslu.

Þess vegna var nauðsynlegt að sterk samstaða og gagnkvæmur skilningur myndaðist milli ASÍ og BSRB um aðgerðir gegn ólögunum. Slíkar aðgerðir sem "ólöglegt" verkfall reyna mjög á stéttarvitund meðal alþýðunnar. Ef staðið hefði verið lýðræðislegar að ákvarðanatöku um aðgerðirnar þá hefði líka náðst víðtækari samstaða og verkfallið orðið mun kraftmeira.

Nú verða meðlimir verkalýðshreyfingarinnar að taka höndum saman um að brjóta ólögin á bak aftur. Undansláttur forystumanna verkalýðshreyfingarinnar er það sem verður að varast. Skipuð hefur verið 10 manna nefnd sem á að sjá um alla ákvarðanatöku um hvort og hvernig baráttan eigi að vera. Þessar starfsaðferðir verður að varast, því þær vinna gegn lýðræðinu innan verkalýðshreyfingarinnar. Krafa verkalýðsins er að ólögin verði afnumin og hann er tilbúinn til að beita hörðustu gagnaðgerðum. Í forystu verkalýðshreyfingarinnar eru menn sem þegar hafa sýnt sig vera tilbúna til uppgjafa og undansláttar. Þeir hafa sýnt það með úrtölum í baráttunni gegn ólögunum og þeir hafa sýnt það í hvers kyns verkalýðsbaráttu undanfarin ár.

Gegn þessum mönnum verður að berjast og þá verður að gera áhrifalausa, því þeir ganga erinda borgarastéttarinnar innan raða verkalýðshreyfingarinnar.



# Um forsögu KFÍ/ML

KSML voru marx-lenínísk samtök allt frá upphafi og innan þeirra fór ætíð fram tveggja línu barátta. Allt frá stofnun sinni byggðu KS-ML á grundvelli marxismans-lenínismans, en ráku "vinstri" hentistefnu í flestum baráttumálum, en fyrir baráttu félaganna og þá tveggja línu baráttu sem ætíð fór fram innan samtakanna, var gert upp við einangrunarstefnuna og stefna samtakanna samræmd hagsmunum fjöldans.

Á fyrsta þingi flokksins var þessi barátta dregin saman, en hún var ófullnægjandi að því leyti, er varðar afstöðu til samfylkingar yfirleitt og heildaruppgjör við fræðilegar forsendur einangrunarstefnunnar.

Stofnun KFÍML var rétt skref þó olli áframhaldandi sundrung m-l hreyfingarinnar miklum skaða og veldur enn. Þetta veldur miklum skaða fyrir verkalýðsbaráttuna og hefur veitt skaðlegum öflum starfsfrið til að vinna skemmdarverk á m-l hreyfingunni.

Þrátt fyrir stofnun flokksins festist lýðræðislega miðstjórnaraflið ekki í sessi og hafði áfram vissa galla sem torveldaði rétta lausn innan flokksins. Lýðræðislega miðstjórnaraflið var auk þess skert enn frekar af sumum félögum sem síðar gengu úr flokknum. Það birtist í því, að þeir lögðu ekki fram gagnrýni sína opið og heiðarlega, en unnu að klíkumyndun.

Félagarnir verða að læra af mistökum sem "7-menningarnir" gerðu. Þeir verða að varast að fela skoðanir sínar fyrir öðrum félögum. Við verðum að læra að virða skoðanir hvers annars og ræða skoðanamun á félagalegan og agaðan hátt.

Mat flokksins á EIKML er að þessi samtök byggi á almennum grundvallaratriðum marxismans-lenínismans, en reki einangrunarstefnu og hafi rangar starfsaðferðir. Flokkurinn hvetur félaga EIKML til að gera upp við villur sínar og æskir samstarfs í baráttunni gegn íslenska einokunarauðvaldinu, endurskoðunarstefnunni og heimsvaldastefnunni.

II. þingið varar við þeirri hættulegu tilhneigingu, að starf okkar í fjöldahreyfingunni leiði til hægri villna sem birtast m.a. í því að gera málamiðlun að markmiði í sjálfu sér. Félagar flokksins verða að berjast á tvennum vígstöðvum gegn vinstri- og hægrihentistefnu. Málamiðlun er m.a. aðferð til að ná betri vígstöðu, afhjúpa óvininn og komast hjá óhagstæðri orustu. II. þingið ályktar að flokkurinn þurfi að hefja leiðréttingarherferð strax að loknu þinginu. Hafa ber í huga, nauðsyn þess að slík herferð byggi á vitund allra félaga og þátttöku.

Leiðréttingarherferðin hlýtur að fela í sér að minnsta kosti:

a) baráttu fyrir efldu skipulagi og gegn hvers kyns frjálshyggju,
b) baráttu gegn hættunni af hægri tilhneigingu í starfinu,
c) áframhaldandi baráttu gegn "vinstri" hentistefnunni og starfsaðferðum sem "7-menningarnir" stóðu fyrir,
d) baráttu fyrir upprætingu gallanna á lýðræðislega miðstjórnaraflinu og fyrir myndun sterks lýðræðislegs miðstjórnarafls, sem byggir á virkni og vitund allra félaga.



# Um starfsaðferðir

Kommúnistaflokkur Íslands berst fyrir stefnumiðum sínum innan allra fjöldahreyfinga

Flokkurinn lítur á það sem eðlilegan þátt í baráttu sinni að félagar hans taki þátt í forystu hinna ýmsu fjöldahreyfinga og berjist einnig fyrir stefnumiðum hans þannig.

# Ályktanir 2. lands

## Stjórnmálaályktun 2. landsþings KFÍ/ML

Kjaraskerðingar undanfarins árs hafa ljóslega sýnt, að íslenska einokunarvaldið ætlar sér að velta byrðum efnahagskreppunnar yfir á herðar hins vinnandi fjölda. Ólög ríkisstjórnarinnar sem sett voru í síðasta mánuði, eru bein og ósvífin árás á efnahagsleg kjör og lýðréttindi íslenskrar alþýðu.

Kommúnistaflokkurinn hvetur íslenska alþýðu til þess að taka upp einarða baráttu gegn ólögunum. Það verður að hnekkja árásum ríkisvaldsins og atvinnurekenda á samningsrétt verkalýðshreyfingarinnar og brjóta á bak aftur kjaraskerðingarárás auðstéttarinnar. Kommúnistaflokkurinn hvetur til víðtækrar samfylkingar hins vinnandi fjölda gegn kjararánslögunum og fordæmir sérhverja tilhneigingu til uppgjafar af hálfu verkalýðsforystunnar.

Flokkurinn varar við sviksemi uppkeyptra forystumanna, sem ganga erinda atvinnurekenda leynt og ljóst. Verkalýðsstéttin getur ekki lagt traust sitt á þá forystumenn samtaka launafólks, sem leggja hagsmuni verkalýðsins í sölurnar fyrir embætti innan ríkiskerfisins. Þvert á móti verður verkalýðurinn að heyja óvægna baráttu gegn þeim yfirlýstu sósíalistum og borgaralegum forystumönnum, sem reyna að notfæra sér baráttu verkalýðsins til framdráttar sjálfum sér og stjórnmálaflokkum sínum í komandi kosningum.

Samstaða hins vinnandi fjölda á grundvelli stéttabaráttunnar gegn árásum ríkisvaldsins og atvinnurekenda á lýðréttindin og lífskjör almennings er sú leið sem fara verður, ef sigur á að vinnast. Kommúnistaflokkurinn hvetur íslenskar verkakonur til aukinnar virkni í baráttunni fyrir jafnrétti til starfs og launa. Konan er helmingur hins vinnandi fjölda og mikilvægt afl í þjóðfélagsbaráttunni. Barátta þeirra fyrir jafnrétti og frelsi verður að byggjast á grundvelli stéttabaráttunnar. Voldug samfylking karla og kvenna úr verkalýðsstétt er eina aflið sem megnar að brjóta arðránsskipulag kapitalismans til grunna og reisa nýtt þjóðfélag, þar sem vinnan er frjáls og þegnarnir njóta sameiginlega ávaxtanna af starfi sínu.

Kommúnistaflokkurinn leggur mikla áherslu á, að íslenska þjóðin auki árvekni sína gagnvart styrjaldarhættu, sem stafar af baráttu risaveldanna tveggja - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna um heimsyfirráð. Íslensk alþýða verður að berjast við hlið alþýðunnar í heiminum fyrir þjóðfélagsbyltingu, frelsi og sjálfstæði. Kenning Maó Tse-tung um tilvist þriggja heima, er vísindaleg skilgreining á heimsástandinu og þýðingarmikill leiðarvísir kommúnista og alþýðu í byltingarbaráttunni um gervalla veröldina. Kommúnistaflokkurinn tekur afstöðu gegn klofningsöflum innan marxísku-lenínísku heimshreyfingarinnar, sem notfæra sér ágreining milli albanska og kínverska kommúnistaflokksins til klofningsstarfs meðal alþýðunnar. Afstaða þessara afla þjónar einvörðungu heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Afstaða okkar hlýtur að vera sú, að einangra höfuðóvininn, í þessu tilviki Bandaríkin og Sovétríkin - samfylkja öllum öðrum gegn honum, undir forystu verkalýðsins.

Megin þungi byltingarbaráttunnar í heiminum hvílir á herðum alþýðunnar í löndum þriðja heimsins, sem heyr vopnaða baráttu fyrir frelsi sínu, sjálfstæði og sósíalisma. Íslensk alþýða verður að styðja þessa baráttu á allan hátt. Evrópa er líklegur vettvangur nýrrar heimsstyrjaldar og það er afstaða flokksins að þjóðir Evrópu verði að öðlast aukið sjálfstæði gagnvart yfirgangi og útþenslustefnu risaveldanna tveggja. Sovétríkin eru vaxandi heimsvaldaríki og hættan af nýrri heimsstyrjöld stafar fyrst og fremst frá þeim. Belgrad-fundurinn um öryggi Evrópu og "detente"stefnu Sovétríkjanna eru einungis tilraunir til að breiða yfir vaxandi vígbúnað og styrjaldarundirbúning risaveldanna.

Kommúnistaflokkurinn hvetur íslenska alþýðu til þess að stórefla baráttu sína gegn veru Íslands í NATO og bandaríska herliðinu á Miðnesheiði. Þetta er mikilvægasta verkefni andheimsvaldabaráttunnar hérlendis í dag. En jafnframt leggur flokkurinn áherslu á að baráttuhreyfing andheimsvaldasinna á Íslandi efli árvekni sína og baráttu gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Ísland verður að skipa sér í raðir þeirra landa sem standa utan við hernaðarbandalög og styðja viðleitni óháðra ríkja til þess að tryggja varanlegan frið í heiminum. Aðeins með því að skipa sér í raðir óháðra ríkja og ríkja þriðja heimsins getur íslenska þjóðin varðveitt sjálfsákvörðunarrétt sinn.



# Um Grænland

Frelsisbarátta grænlensku þjóðarinnar stendur íslenskri alþýðu mjög nærri. Saga vor geymir sams konar baráttu. Menningarleg og söguleg tengsl þessara tveggja þjóða eru mjög sterk.

Á grundvelli þessa ber íslenskri alþýðu skylda til að styðja á alla lund sjálfstæðisbaráttu vinaþjóðar okkar Grænlandi.

Við verðum að afhjúpa og berjast gegn kúgun Dana á Grænlendingum.

Þingið lýsir yfir fyllsta stuðningi við starf Grænlandsvinafélagsins og hvetur íslenska alþýðu til aukinnar virkni og stuðnings við starf þess.

Afhjúpun á heimsvaldastefnu Dana á Grænlandi verður til þess að opna augu fólks fyrir kúgunar- og arðránseðli heimsvaldastefnunnar.

# þings KFÍ/ML

## Um verkalýðsmál

II. landsþing Kommúnistaflokks Íslands m-l ályktar að verkalýðshreyfingin verði sameinuð að beita hörðustu baráttuaðgerðum gegn hvers kyns árásum á hendur henni. Baráttan verður að standa á grundvelli verkalýðsstéttarinnar og miðast gegn auðvaldinu, endurskoðunarstefnunni og stéttasamvinnunni. Þannig verður verkalýðshreyfingin að hrinda þeim árásum sem stéttaróvinurinn hefur þegar hafið og hefur á prjónunum að grípa til.

Kjararánsherferðin sem ríkisvald auðstéttarinnar fór þegar það samþykkti á Alþingi frumvarp þess efnis, er grófasta árás sem gerð hefur verið á hendur verkalýðsstéttinni nú um árabil. Ólög þessi fela ekki eingöngu í sér skertan kaupmátt launa, heldur eru þau þvert brot á þeim sjálfsögðu lýðréttindum sem frjáls samningsréttur er.

Þau eru hrein svik við nýundirritaða kjarasamninga milli Alþýðusambands Íslands og Bandalags starfsmanna ríkis og bæja annars vegar og Vinnuveitendasambands Íslands og ríkisvaldsins hins vegar.

Ólögin eru glöggt dæmi um stéttarlegt eðli ríkisvaldsins.

Það beitir löggjafarvaldinu til að skerða kjör launafólks og um leið auka gróða atvinnurekenda. Ríkisvaldið ætlar sér enn fremur að beita framkvæmdarvaldinu til að fylgja ólögunum eftir.

Slík lög ná engan veginn til launafólks, hvorki efnalega né siðferðislega. Þau eru ólög sem ber að meðhöndla á viðeigandi hátt. Í baráttunni gegn þeim, sem og öðrum viðlíka aðgerðum, gildir einu um hvort þær aðferðir sem verkalýðshreyfingin beitir, séu túlkaðar lögbrot frá sjónarmiði yfirvaldsins. Því upphaflegi skaðvaldurinn er atvinnurekendavaldið, sem brýtur sín lög með sínum lagasetningum. Tilraunir auðvaldsins til að velta afleiðingum efnahagskreppunnar yfir á herðar verkalýðsins krefjast þess að varnarbaráttan verði skipulagðari og harðari. Hlutverk verkalýðsstéttarinnar er að taka framleiðslutæki þjóðfélagsins í sínar hendur og binda þannig enda á arðránið. Þá fyrst fær hinn vinnandi maður að njóta arðsins af vinnu sinni.

Innri uppbyggingu verkalýðshreyfingarinnar verður að treysta. Hún verður að byggjast á lýðræðislegum og um leið miðstýrðum grunni.

Ástandið í dag innan verkalýðshreyfingarinnar einkennist mjög af síaukinni miðstýringu þannig að völd og ákvarðanataka eru í höndum örfárra manna. Þetta kemur óhjákvæmilega mikið niður á lýðræðinu innan verkalýðshreyfingarinnar þannig að almennir félagsmenn verða lítt virkir eða óvirkir í starfseminni og baráttunni.

Þessa andstæðu verða almenn ir félagsmenn að uppræta ef takast á að framkvæma það meginverkefni að gera verkalýðsfélögin að virkum baráttutækjum.

Virk baráttustefna verður að yfirbuga árásir auðstéttarinnar og ríkisvald hennar.



Til þess að svo megi verða er nauðsynlegt að sigrast á allri úrtölu-og undanláttarstefnu sem mjög er rekin af erindrekum auðstéttarinnar innan raða verkalýðssamtakanna. Þessi uppgjafapólitík nagar innviði verkalýðshreyfingarinnar og sundrar baráttueiningu hennar. Hún miðar að samvinnu við höfuðóvin verkalýðsstéttarinnar í stað óvæginnar baráttu gegn honum. Reynslan hefur sýnt að það er einingin á grundvelli stéttabaráttu verkalýðsins gegn borgarastéttinni, sem dugir til breytingar og stökkbreytingar í lífskjarabaráttu alþýðunnar.

## Um jafnréttismál

Baráttuvettvangur kvennahreyfingarinnar er raunverulega allt þjóðfélagið. Konur eru alls staðar kúgaðar, í vinnunni, í menntakerfinu og af karlmönnum. Undirrót alls þessa er auðvaldsþjóðfélagið. Kvennahreyfingin er sameiginlegur skipuleggjari baráttufúsra kvenna. Þar sem engin bylting verður gerð án þátttöku kvenna verður að vera til sjálfstæð kvennahreyfing sem er hvetjandi og skipuleggjandi afl fyrir verkakonur í baráttu þeirra.

Efla verður þá stefnu innan kvennahreyfingarinnar að taka bæði upp kynferðislegu kúgunina og þá stéttarlegu. Vegna þess að báðar hliðar eru jafn mikilvægar og ef önnur er upphafin á kostnað hinnar, þá mun kvennabaráttan leiðast inn á ranga braut.

Hreyfingin verður að höfða meira til verkakvenna og hvetja þær til baráttu innan verkalýðsfélaganna.

Berjast verður fyrir jafnrétti á vinnumarkaðinum og gegn skiptingu vinnu og launa í karla-og kvennastörf. Þetta kallar á meiri baráttu verkakvenna og samstöðu kynjanna í stéttabaráttunni. Eðlileg afleiðing af þessari baráttu er sameining verkalýðsfélaga karla og kvenna.

Liður í því að allir geti notið réttarins til vinnu er baráttan fyrir nægri og ókeypis dagvistun fyrir öll börn, bæði á forskóla- og skólaaldri.

Rauðsokkahreyfingin er eina framsækna kvennahreyfingin hér á landi, kommúnistar eiga því að starfa innan hennar.

## Um stéttir í íslensku þjóðfélagi

II. landsþing KFÍ/ML staðfestir að sú skilgreining á stéttunum í íslenska auðvaldsþjóðfelaginu, sem sett var fram í stefnuskrá I. landsþings flokksins sé rétt í grundvallaratriðum, en þar segir m.a.: "Höfuðmóthverfa íslenska auðvaldsþjóðfélagsins er á milli borgarastéttar og öreigastéttar. Iðnverkalýðurinn er sá hluti hins vinnandi og arðrænda fjölda sem einn er fær um að leiða baráttuna. gegn borgarastéttinni til fullra lykta."

Þó vill þingið benda á nauðsyn þess að gera verður skýran greinarmun á forystuaflinu í stéttabaráttunni - iðnverkalýðnum- og þeim hópum þjóðfélagsins, sem hvarfla milli afstöðu öreigastéttarinnar og borgarastettarinnar, en eru þó nánustu bandamenn verkalýðsins í bæjunum. Hér er einkum átt við lægra sett skrifstofu og verslunarfólk og fólk í ýmsum þjónustugreinum. Ennfremur þarf að gera skýra grein fyrir stöðu vinnandi fólks til sveita, en þar er nánustu bandamenn verkalýðsstettarinnar að finna fyrst og fremst meðal landbúnaðarverkalýðsins, en einnig hálföreiga og smábænda.

Stéttgreining er eitt mikilvægasta stjórnlistarlega verkefnið í sambandi við baráttuna fyrir sósíalísku þjóðfélagi. Þó má engan veginn líta svo á að sú stettgreining, sem flokkurinn byggir starf sitt á í dag se endanlega mótuð. Þvert á móti þróast og mótast hún samfara vexti og þróun ísl. byltingarhreyfingarinnar.

Umræðurnar um stéttirnar og tilgang stéttgreiningar verða því að halda áfram innan flokksins. Því leggur þingið til að hið bráðasta verði numinn og ræddur bæklingur KFÍ/ML, "Staða verkalýðsstéttarinnar", þannig að unnt sé að móta sem heilsteyptasta stéttgreiningu á íslenska auðvaldsþjóðfélaginu sem leiðsögn í baráttu verkalýðsstettarinnar fyrir sósíalískri byltingu á Íslandi

## Um starf og stefnu í HÍ

Grundvallaratriði stefnu KFÍ/ML er að skólakerfið og menntun og vísindi séu skipulögð út frá hagsmunum verkafólks og barna þeirra. Þess vegna er aðalbaráttumál okkar jafnrétti til náms.

Grundvallar forsenda þess að hægt sé að tala um nokkuð jafnrétti, er að fólki sé fjárhagslega kleyft að stunda nám Eins og staða námsmannahreyfingarinnar er í dag, verðum við að miða okkar starf við að bæta námslánin og útvíkka þann hóp sem fær þau.

Við krefjumst þess vegna :

1) Allir framhaldsskólar hafi sama rétt til námslána.
2) Námslán brúi 100% umfram fjárþörf.
3) Afnám vísitölubindingar námslána.

Þessi baráttumál okkar miðast við þá stefnu okkar að nám sé vinna, og það beri að launa. Krafa okkar innan verkalýðsfélaganna um "lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku" gildir þess vegna líka fyrir skólana. Einnig verður nemendahreyfingin að taka upp baráttu fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku, til handa allri vinnandi alþýðu. Það er algjör forsenda þess að verkafólk og öll vinnandi alþýða, geti sjálf aflað sér nauðsynlegrar þekkingar. Þannig verður námsfólk og öll vinnandi alþýða að taka upp sameiginlega baráttu Námsfólk verður að styðja verkalýðinn á allan mögulegan hátt í allri baráttu hans.

Þó að grundvallarforsenda þess að fólk geti yfirhöfuð stundað nám, sé að fólki sé það fjárhagslega kleyft, þá einskorðast barátta kommúnista innan skólanna ekki við það atriði. Kommúnistar berjast fyrir því að eðli og innihald námsins verði miðað við hagsmuni verkafólks. Við

framhald á síðu 3

## Stefnan í andheimsvaldabaráttunni

Alla áherslu ber að leggja á að efla Samtök herstöðvaandstæðinga.

Styrkja þarf innviði samtakanna með því að efla hópstarfið svo stöðugt starf verði innan hópanna. Auka ber frumkvæði hópanna svo þeir verði sjálfstæðar einingar, er sjái um áróðursstarf og umræður á sínu starfssvæði.

SHA þurfa að vera mjög virk fyrir komandi kosningar, efla áróðurs-og útbreiðslustarf sitt og halda áróðri hátt á lofti. Þau eiga ekki að styðja neinn stjórnmálaflokk, en notfæra sér þá þjóðfélagsumræðu sem þarna fer fram til þess að ná til fjöldans. Einnig þurfa þau að sýna styrk sinn með stórum aðgerðum, t.d. Keflavíkurgöngu, svo stjórnmálamenn neyðist til að taka tillit til þeirra og hvorki færi sig upp á skaftið með að festa herinn í sessi, eða bregðist málstað herstöðvaandstæðinga.

SHA þurfa að vera á varðbergi gagnvart og snúast gegn hugmyndunum um að berjast ekki gegn NATO, heldur aðeins hernum þá mega SHA aldrei sættast á málamiðlanir stjórnmálamanna, heldur berjast óaflátanlegri baráttu fyrir brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO.

SHA verða að byggja starf sitt á grundvelli fjöldabaráttunnar efla meðvitund fjöldans og skipuleggja hann til baráttu gegn heimsvaldastefnu beggja risaveldanna. Baráttan verður fyrst og fremst að beinast gegn bandarísku heimsvaldastefnunni, veru Íslands í NATO og setu hersins hér. En SHA verða samtímis að ráðast gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna, afhjúpa árásareðli þeirra og yfirgang á N-Atlantshafssvæðinu. Styrjaldarhættan kemur frá Sovétríkjunum. Baráttan fyrir verndun sjálfsákvörðunarréttar íslensku þjóðarinnar verður ekki árangursrík, ef hún beinist ekki gegn báðum risaveldunum. Gegn allri heimsvaldastefnu - verjum sjálfstæði íslensku þjóðarinnar


Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!
# Stéttabaráttan

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
13.tbl. 7.árg. 28.3. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




## Stofnun samtaka leigjenda í undibúningi

Fréttatilkynning frá undirbúningsnefnd.

Leigjendur þ.e.a.s. það fólk er býr í leiguhúsnæði er ákveðinn þjóðfélagshópur (talið er að 20-30% heimila á Reykjavíkursvæðinu búi við leiguhúsnæði). Þessi hópur á við að búa, sem slíkur, mjög þröngan kost. Nú er húsnæðisskortur ríkir. Réttur leigjenda er hvergi tryggður í lögum, en aftur á móti eru t.d. skattalög þeim andstæð. Verð leiguhúsnæðis er gjörsamlega háð framboði og eftirspurn, samkeppni er hörð meðal leigjenda, yfirboð tíð og því uppsprengt verðlag, í sumum tilfellum er um hreint leiguokur að ræða.

Þar sem meirihluti leigjenda er láglaunafólk rennur oft þriðjungur tekna þeirra eða jafnvel meira til greiðslna á húsaleigu. Oft á tíðum eru leigjendur varnarlausir gagnvart duttlungum leigusala og leigusamningar þeim mjög í óhag. Við ríkjandi aðstæður er fólki því gert nær óbærilegt að búa í leiguhúsnæði a.m.k. til langframa.

Það er m.a. með tilliti til framangreindra aðstæðna sem ákveðinn hópur leigjenda ásamt nokkrum fulltrúum verkalýðshreyfingarinnar hefur hafið undirbúning að stofnun samtaka er gæta mættu hagsmuna þeirra í næsta mánuði. Þess mun þá vænst að allur þorri leigjenda bregði skjótt við og ljái samtökunum lið í baráttu fyrir réttindum þeirra.


Á þessari mynd sjást tveir af þörfustu þjónum danska auðvaldsins við skyldustörf, eftir að þeim hafði verið sigað á danskt alþýðufólk.

## Blóðhundum sigað á verkafólk

Með dýpkandi kreppu hefur stéttabaráttan í Danmörku skerpts til muna. Atvinnuleysið ógnar verkafólki stöðugt, vinnustöðum er lokað og víða er fólki fækkað á vinnustöðunum. Stöðug sókn atvinnurekenda eftir sífellt meiri gróða, samfara skipulagsleysi hinnar kapítalísku framleiðslu, hefur valdið gífurlegri offramleiðslu og kemur þetta skýrt fram í Danmörku. Það eru atvinnurekendur og ríkisvald þeirra sem bera ábyrgð á kreppunni, en þeir skella skuldinni á herðar launafólks. Sem dæmi má nefna flutning framleiðslunnar til landa þar sem vinnuafl og allur framleiðslukostnaður er ódýrari, það er að segja þangað sem kúgunin á verkafólki er meiri. Í öðrum fyrirtækjum er gróðinn aukinn eða haldið við með því að segja upp fólki en auka þess í stað vinnuálagið á þeim sem eftir eru.

Eitt af mörgum dæmum um þetta eru fjöldauppsagnir á Ferjunni, sem siglir á milli Árósa og Sjálands. Þar voru sextán manns reknir án lögmæts fyrirvara. Gripið var til aðgerða af fólkinu, sem rekið var og starfsfélögum þeirra. Send voru út dreifirit á vinnustaði og í skólana þar sem fólk var hvatt til að styðja aðgerðirnar.

Safnast var saman á hafnarbakkanum og var ætlunin að reyna að hindra að ferjan sigldi. Lögreglan mætti sterk til leiks, og samkvæmt reglunni tveir heilar hugsa betur en einn, höfðu þeir hunda sér til aðstoðar. En það hefur færst stöðugt í aukana, að lögreglan notar hunda gegn verkfallsfólki og mótmælaaðgerðum. Þarna voru hundarnir notaðir til að láta fólk sitja og standa eftir því sem lögreglan vildi. Til þess að sýna veldi sitt lét lögreglan einn hundinn bíta eina af verkfallskonunum, þannig að kalla varð á sjúkrabíl.

Hundarnir eru sérstaklega þjálfaðir til að ráðast á fólk og bíta það, en fólk stendur varnarlaust gagnvart þeim. Eina leiðin til þess að forðast að vera bitinn er að drepa hundinn, sem reyndar er mjög erfitt. En þó svo að einhverjum tækist það, liggja allra þyngstu viðurlög við því.

Er svo hægt að efast um það í hverra þágu lögreglan vinnur?


Störf Íslendinga fyrir heimsvaldasinnana í Kreml, bæta orðum á brjóst Bresnéffs.

## Sovétríkin auka tilraunir sínar til áhrifa hérlendis

Á undanförnum árum hafa Sovétríkin sýnt Íslandi vaxandi áhuga. Þetta á rót sína að rekja til þess hernaðarlega mikilvægis, sem N-Atlantshafssvæðið hefur ef til heimsstyrjaldar kemur. Sovétríkin hafa hér óeðlilega stórt sendiráð og reka hér öfluga áróðursstarfsemi. Nokkrir Íslendingar eru á launum hjá fréttastofunni APN, sem gefur út blaðið "Fréttir frá Sovétríkjunum" í geysistóru upplagi aðra hverja viku. Að auki hafa Sovétríkin eflt mjög aðra áróðursstarfsemi sína, t.d. höfðu þeir mikil umsvif á húsgagnasýningunni Heimilið, sem haldin var í vetur. Þar dreifðu þeir pólitískum ritum, myndefni og sýndu kvikmyndir.

### Hver er ástæðan fyrir þessum auknu umsvifum?

Ástæðan fyrir auknum umsvifum Sovétríkjanna hérlendis stafar af hernaðarlegri legu landsins. Þetta er í raun liður í undirbúningi sovéskra heimsvaldasinna fyrir nýrri heimsstyrjöld. Sovéskir ráðamenn ætla sér að verða ráðamenn allrar veraldarinnar og þeir eru að undirbúa sig hernaðarlega til þess að hrinda þessum vitfirringslegu áætlunum í framkvæmd. Þáttur í þessu eru hin stórauknu flotaumsvif Sovétríkjanna umhverfis landið og í Norðurhöfum yfirleitt. Margar flotaæfingar hafa verið haldnar, þar sem landganga fjölmenns liðs hefur verið æfð. Sömuleiðis hafa Sovétríkin valið kjarnorkukafbátum sínum staðsetningar sem eru hernaðarlega þýðingamiklar þegar til átaka kemur á N-Atlantshafssvæðinu. Enginn vafi leikur á því, að slíkir kafbátar eru á sveimi umhverfis landið. Það kom til dæmis í ljós fyrir skömmu, að Sovétríkin hafa staðsett 6 kjarnorkukafbáta í Eystrasaltinu, en þessi staðreynd olli miklu fjargviðri í Svíþjóð og víðar. En þetta er aðeins önnur hlið málsins. Jafnframt því sem Sovétríkin undirbúa og efla hernaðarmátt sinn, reyna þau líka að styrkja aðstöðu sína í Evrópulöndunum, til þess að auðvelda hernám þessara landa þegar til styrjaldar kemur. Þessi aðferð er vel þekkt frá dögum seinni heimsstyrjaldarinnar, þá sköpu nasistarnir hópa landráðamanna og quislinga í allflestum Evrópulöndum, sem undirbjuggu og auðvelduðu hernám heimalanda sinna. Þessi þáttur undirbúnings Sovétríkjanna undir nýja heimsstyrjöld hefur víða komið fram erlendis, þótt honum hafi verið veitt lítil athygli hérlendis. Erlendis hafa njósnarar verið afhjúpaðir og gerðir landrækir í hundraðatali.

Það er ekki bara um ríki að ræða að hafi verið veitt lítil athygli hérlendis. Þar hafa njósnarar verið afhjúpaðir og gerðir landrækir í hundraðatali. Og það er ekki bara um ríki að ræða, sem eru andstæð Sovétríkjunum eða í NATO. Slíkar njósnir hafa átt sér stað víðar. Það er ekki langt síðan njósnarar voru gerði burtrækir frá Noregi.

### Eru sovét-quislingar hérlendis?

Margt bendir til þess, að Sovétríkin leiki sama leikinn hérlendis. Það er óeðlilegt hversu fjölmennt sendiráð þeir starfrækja og hversu útbreiðslustarfsemin er víðtæk. Ekkert annað ríki, að undanskyldum Bandaríkjunum, sem almenningur veit vel að stundar hér njósnir og yfirgang, hefur slík umsvif. Fréttir frá Sovétríkjunum eru gefnar út af APN, en starfslið blaðsins er íslenskt. María Þorsteinsdóttir er ábyrgðarmaður þess, en jafnframt því er hún atkvæðamikil innan Menningar-og Friðarsamtaka Íslenskra Kvenna, sem eru algjörlega á bandi Sovétríkjanna í einu og öllu.

Framhald á síðu 3.